# Forordning
## AHRÆRANDE
## VPPVAXANDE VNGDOOMS
# CONFIRMATION-
## OG
# Stadfesting,

J Hañs SKJJRNAR-NAAD.

FRJDERJCHS-Berg Slote, Pañ 13. Januarij 1736.





Prentud at Hoolum i Hialltadal Anno 1749.

# Vier Christian Siötte,

af Guds Nád / Konungur ad Danmørk og Norvegi / Vinda og Gauta / Hertoge i Slesviik / Holstein / Stormaren og Dytmersken / Greife i Oldenborg og Delmenhorst.

Giørum øllum Vitanlegt, ad Vier epter gooda og velgrundada Yfervegan, sem og nockra Biskupa Vorra, af vorre Til-Skipan, i stærstu Undergefne Oss tilsenda Uñþeynking, høfum funded, ad Vorum kiæru og trwlyndu Undersaatum, einkanlegast þeim uppvaxande Ungdoomi til Gagns og Uppbyggingar verd a meige, sw fyrre æred laungum Tijma i ymsum Stødum i Christeñdoomeñ iñfærda, og i mørgum Evangeliskum Søfnudum, sierdeilis, i Vorum eigin Hertuga og Herra-Dæmum ad miklu leite nu veniuleg ordeñ Barna Confirmation, edur Openberleg Stadfesting i þeirre Naad, sem þeim var veitt i Skijrneñe, þeirra Barna, nefnelega sem i fyrsta siñe vilia ganga til Guds Bords, yrde og so lijka Iñfærd og vidtekeñ i baadum Vorum Rijkium Danmørk og Norveige, ad Meñ þvi betur uppfræddu Børneñ til so heilags Verks, sem Brwkun Alltaresens Sacramentis er, samt kostgiæfelega uppvekte þau til stødugs Trwskapar i þeirre Naad, sem þau hafa feinged i Skijrneñe, lijka eirneñ ad þeir fullordnu aamyñter yrdu aa þañ Saattmaala, sem þeir hafa heited Gude i Skijrneñe, og aa þa Lofun, sem þeirra Gudfedgin hafa giørt fyrer þa; So ad med þessum Hætte øllum Sooknar-Moñum Iñelega iñrætt verdi þeirra Skyllda, og þeim fullkomeñ Uppvakning gefest til allrar goodrar og aavaxtarsamrar Uppbyggingar i þeirra Christendoome. Þess vegna er Vor Allra-Naadugaste Vilie og Skipan, ad þetta Christelega, gamla, Nytsamlega og Lofsverda Verk uppbyriest aa þañ Hatt, sem hier er fyrer skrifadur, og frañflitiest i øllum Søfnudum i baadum Vorum Rijkium, og stadfastlega geimest, nefnelega:

1. Barna confirmation og Iñvijgsla, so og þeirra Openberlegt Examen og Yfirheyrsla skal vera Almeñ Regla og fullkomeñ Skyllda, sem øll Børn i Søfnudenum, eingu fraskildu, af hveriu hellst Stande og Virdugleika þau eru, skulu Obrigdanlega tilskyldast, so ad eckert Mañareinar Alit Orsake hina minstu Misklijd i Samkunduñe.

2. Einaeñ Børn meiga confirmerast, sem eige hafa aadur geinged i Skoola, eda vered uppfrædd i þeim sierlegustu Christendoomsens Høfud-Greinum; Eñ þar eingir

opeñ-

openberer Skoolar eru stiptader i Søfnudenum, þa skulu þau fyrst af Diaknanum, edur odrum hæfum Mañe, leidast til ad þeckia Gud, ꜳdur eñ þau ad sijdustu verda af Prestenum uppfrædd i Skilninge Frædaña, yfirheyrd og confirmerud.

3. Af þvi marger Forelldrar gleyma fyrst og opt siñe Skylldu, i þvi ad lꜳta uppfræda sijn Børn i Tijma, þa skal Keñemaduriñ i Søfnudenum gefa goodar Giætur ad, hvert þeim Børnum, sem snarlega ꜳ setia sier adganga til Guds Bords (uppa hver hañ i Tijma skal giøra sier Registur, ad so miklu leite sem orded gietur) hefur vered af þeirra Forelldrum hallded i Skoola, eñ hafe þeir vered hirdulauser i þvi, a hañ ad upporva þꜳ þar til; Vilie þeir a eingañ Hꜳtt lꜳta uppfræda sijn Børn, og Børneñ nær þau frañkoma eru oupplijst, þa skal Keñemadureñ þau ei confirmera, allt so leinge þau eige hafa betre Uppfræding feinged.

4. Kieñemadureñ skal ei alleinasta i þeim vanalegu Examinibus i Kyrkiuñe, æfa þau Børn framar odrum med Spurningum og Andsvørum, sem frambodeñ verda til Confirmation, helldur og eirneñ skal hañ Arenu ꜳdur, eñ hañ hugar þau mune vilia frañkoma, lꜳta þau þess ꜳ millum, epter þvi sem hañs Embættis Krijngumstædur eru, koma til sijn i sitt Hws, til ad undervijsa þeim i þeirra Christeñdoome, med þeim Hætte, ad þau ei einasta fꜳe Skilning ꜳ Meininguñe, epter Book-Stafnum, i þeim Naudsynleguslu Trwareñar Greinum, helldur og eirneñ verde upphvøtt til ad nꜳ þar af lifande Þeckingu og ydkest þar i; So ad Børneñ, under eins og Guds Sañende verda þeim kroptuglega og alvarlega fyrer Siooner sett og iñrætt, uppvekiest til ad giefa Rwm Sañleikanum, og fꜳe sañañ Smeck og Andlega Reynslu til ad epterfylgia hønum i þeirra Lijferne og Framferde: I Einu Orde ad seigia, komest til sañrar Hiartans og Siñesins Umvendunar

5. Pad Confirmations-Tijmanum viðvijkur, þa skal, ad Dæme þeirrar Fyrstu Kyrkiu, sꜳ Fyrste Suñudagur epter Pꜳska, sem kalladur er: Qvaſi modo geniti, þar til vera skipadur; Eñ hvar Safnaderner eru stoorer, mꜳ sꜳ Fyrste Suñudagur epter Michaelis Messu, eda og þar Sooknernar eru æred stoorar, sꜳ Fyrste Suñudagur epter Nijtt Ar, þar til halldast: Kieñemadureñ skal epter siñe goodre Skynseme hafa Giætur ꜳ, ad ei verde moot Of-morgum teked i Señ til Confirmation, og ad fremur sie giætt ad þeirra Dugnade eñ Alldre. A þeim Døgum, sem skickader eru til Confirmation, skal Presturen, Dageñ sem Confirmationen ꜳ ad halldast, haga so siñe Predikun, ad hun verde sem allra styttst, so ad øll Guds Þioonustugiørd med Predikun, Saung og Confirmation endest eins snema og vant er, ad ei verde fyrer Foolkenu tafed, eda þad þurfe ad fiña sier Orsøk til ad gꜳnga wt af Kyrkiuñe, ꜳdur eñ Confirmationen, og øll Guds Þioonustugiørd er til Enda. Þess vegna viljum Vier Allra-Nꜳdugast, ad eingeñ Communion edur Sacramentis Framreidsla sie ꜳ þeim Døgum frameñ, sem Confirmationin framfer, Eñ i Vorum Konunglega Residentz-Stad Kaupmañahøfn, og slijkum Stødum, hvar Sooknar-Foolked er margt, og þess kañ vid ad þurfa, mꜳ Communionen, ꜳ þeim somu Døgum, i Stadeñ fyrer Hꜳ-Messu af Hende hefiast i Morgun-Messuñe.

6. Þegar lijdur ad þeirre Arsins Tijd, sem Confirmationin og Stadfestingeñ uppa Skijrnar-Nadena skal halldast, skulu Forelldrarner lata Kieñemañeñ vita i Tijma, ad þeir eiga Born, sem ætlud eru til ad confirmerast, hvor hañ late koma til sijn heim i sitt Hws, ad hañ vita fae, hvorneñ þau grundvollud eru i sijnum Christendoome, yferheyre þau og uppfræde; Eñ hvad morgum Vikum fyrer Confirmationena, þvilijkt skule gioirast, er hvørs eins Kieñemañs goodre og giegnelegre Skynseme tiltrwad ad athuga, so og, ad hañ hegde sier, epter þeim Krijngumstædum, sem vidkoma hañs Søfnude, og epter þvi sem þeirra Naudþurft wtkrefur; Ad minsta Koste, skal þvilijkt skie halfu Missere adur, og Tvisvar i hvorre Viku. A þeim Stødum, hvar Tvær edur fleire Prædikaner eige halldast, eda Embættis Utriettingar eru ei so margar, skal Kieñemadureñ taka Borneñ a Suñudageñ epter Messu, og um Fostuna epter Passions-Predikunena i Vikuñe heim i sitt Hws, og uppfræda þau, þvi Bornrñ eru opt i Fiarlægd, og a odrum Døgum hlioota þau ad giegna sijnu Erfide og Viñu.

7. Þad Uppfrædinguna i sier sialfre ahrærer, þa a Kieñemadureñ ad Kappkosta, ad hañ giore hana so skilmerkelega og Vinsamlega, sem hañ best gietur; Og nær hañ framtelur þau Guddoomlegu Sañeude, skal hañ vid hvoria Grein framfæra nockrar Hiarta-giegnum-þreyngiande Uppvakningar til allra Gudligra Ydkana ad Kostgiæfa, Þess a millum spyrie hañ Borneñ, hvort þau hafe eige reynt og forñumed neitt af þeim eda þeim Sañleikssins Krapte i sijnum Salum; Og so sem hañ uppfræder þau oll sameigenlega, skal hañ Endur og Siñum taka þad Eina og Añad Barned fyrer sig sier i Lage, og spyria þad um þess Salar Asigkomulag, hvort þad merke hia sier nockra Umvendan og Trw, og vite hañ til hvorra Synda Eitt eda Añad Barn er hneigt, og hvorneñ fyrer þvi er astatt i Einhvorium sierlegum Krijngumstædum, skal hañ af Medaumkunarsømum Kiærleika setia sama Barne fyrer Siooner þess Salar Eymdarlegt Asigkomulag, og añadhvort sijna þvi og giefa Tækefære til sañrar Umvendunar, Ellegar Stadfesta þad i þvi hinu Gooda.

8. Ef Kieñemadureñ reyner, ad giordre anægianlegre Uppfrædingu, ad þau eda þau Born eru eige i þvi Asigkomulage, ad hañ meige þau confirmera, þa byriar hønum i allre Astseme ad setia þeim og þeirra Forelldrum þad fyrer Siooner, sañfæra þau þar um, og Radleggia þeim ad lata þvilijkt Heilagt Verk, bijda til nærsta Tijma þar epter; Eñ vilie þeir ei med goodum Ordum þad skilia, skal hañ vijsa þeim fra, þo med þeirre Forsialne, ad hvad hellst hañ giorer i þvi Efne, þa sie hañ alltijd skylldugur þad ad forsvara, ef Barned eda þess Forelldrar kuña a Tilhlijdelegum Stødum ad kvarta yfer Kieñemañenum, ef þeim kañ þykia sier vera i nockru þess Hattar Opeñberlega ofþijngt af hønum: Eñ þau Born, sem hañ sañlega reyner dugañleg og hentug, þeim skal Kieñemadureñ, þegar lijdur under Confirmations-Dageñ, undervijsa um Confirmationens-Eigenlegleika, Hattalag og Heilagleika, ad þau þa sialf skule Itreka og stadfesta þañ Sattmala, sem Gud-Fedgineñ vid þeirra Skijrn giordu fyrer þau, og ad þau nu a þessum Døgum Ransake sig vel fyrer Gude, hvorneñ þau hafe hallded siñ Skijrnar-Sattmala, og hvort þau fiñe sig i þvi Asigkomulage, sem Gud hafde veitt þeim og

unt

unt i Skijrneñe, Añars sieu þau eige verd ad framkoma fyrer DRottenn, eda Augsyn nockurs Christens Safnadar.

9. Kieñemadureñ skal Atta Dogum ædur laata Søfnudeñ vita, nær Confirmationen skal halldast; Eñ a Confirmations-Dægenum skal hañ af Kostgiæfne leita þess Efnis, med hvøriu hañ i siñe Predikun wtþijde þessa Giørnings Vigtugleika, og jafnframt upporve giørvallañ Søfnudeñ til Hiartanlegrar Bænar fyrer þeim, sem þa skulu confirmerast; Þess vegna skal hañ sialfur af Predikunar-Stoolnum, æsamt Søfnudenum, æfalla Gud med Hiartnæmre Bæn.

10. Þegar Confirmationen a ad flytiast, skal strax epter Predikunena, ædur eñ su Gudlega Confirmations Framfærsla byriast, hefiast ad syngia: Kom Skapare Heilage Ande; A medañ laate Kieñemadureñ Børneñ koma iñar fyrer Alltared, eda gange hañ fram a Kyrkiu-Goolfed, hvar Pilltarner skulu standa vid eina Sijdu, eñ Stwlkurnar vid adra; Sijdañ byrie hañ þetta Heilaga Verk med Hiartnæmre Bæn, brwke stuttañ Formaala, an laangrar Rædu, þvi hañs Embætte er þa hid hellsta ad giefa Børnunum Orsøk til med Spurningum, ad giora øllum Søfnudenum Grein a þeirre Von, sem þau hafa: Eñ i Yferheyrsluñe sialfre yferfare hañ añadhvort þa Fim Høfud-Parta Frædaña, ellegar take hañ fyrer sig Nidur-Radan Trwar-Greinaña i þeim Saaluhiaalplega Sañleika, eda og Parta Ydranareñar; Og leitest vid ad fa hina adra Trwareñar Articula hiaa þeim Iñþryckta: Þessu næst vijke hañ fraa Barne til Barns, og gainge ecke fyrer nockra sierdeiles Giedsmuna Saker fram hiaa neinu þeirra, þvi hvørt Eitt Barn skal laata Søfnudeñ heyra hvad þad hefur lært. Ef Eitthvørt Barned gietur eige svarad til eirnrar edur añarar Spurningar, þa gange hañ fram hiaa þvi og spyrie hitt añad ad þvi, sem stendur nærst, og þad an þess, ad Ovirda hid añad Barned med hinu minsta Orde fyrer Søfnudenum, þvi Kieñemadureñ skal i þessu Heilaga Verke fordast alla Hrecke og Mañgreinar Allit; Þyke hønum Børneñ svara eige noogu skijrt og skilianlega, þa aminne hañ þau med Hægd ad tala diarflega, og so hatt, ad Foolked fae skiled.

11. Þegar Examen er endad, byrie Kieñemadureñ sialfa Confirmationena, og syne Børnunum og vijse hvad mikelsverdur þeirra Skijrnar-Saattmaale er, seige þeim og, ad þau skule nu sialf Itreka þad, sem Gud-Fedgiñeñ vid þeirra Skijrn hafa Fordum Gude heited og lofad þeirra vegna, skal hañ og uppvekia þau til ad Ihuga þetta grand varlega. Þar epter spyrie hañ sierhvørt Barn sier i Lage og wt af fyrer sig, hvørt þad af øllu Hiarta afneite Dioflenum, og øllu hañs Athæfe, og øllum hañs Verkum? (sem ædur a vel ad wtskijrast, hvad þad hefur ad þijda) þar nærst hvørt þad af øllu Hiarta trwe a Gud Fødur, Son og Heilagañ Anda? (Epter þad Presturen hefur fyrst wtlidad vel Naatturu og Eigenlegleika þeirrar Saaluhiaalplegu Trwar.) I Þridia Maata, hvørt þad vilie standa støgugt i þessum sijnum Skijrnar-Saattmaala fram til siñar sijdurstu Saaluhiaalplegu Endalyctar? Þa skal Barned med skijru Jaa þad sama stadfesta og kroptugt giøra, og Handsala þad Prestenum. Þegar saa sem confirmerast skal, hefur þetta giørt, þa legge Kieñemadureñ, epter Christi Dæme, sijna Hond,

 uppaa

uppa Barnsins Hofud, og giøre stutta Bæn, Þessarar Meiningar.

Sa Prij-Eine Gud, sem Fyrrum hefur medteked þig ad vera sitt Barn i þeirre Heilogu Skijrn, og giort þig ad Erfingia eylijfs Lijfs, hañ virdest ad vidhallda þier i þessare þiñe Skijrnar-Naad, allt til þiñar Saaluhiaalplegu Endalycktar; Hañ giefe þier Stoduglynde i þiñe Trw, til Velferdar þiñe Saalu!

Þegar þesse Vijgsla er giord vid hvort Eitt Barn, þa hallde Kieñemadureñ faaorda Rædu, og syne med heñe Bornunum, Fyrst hvad þau nu hafa giort og heited Gude, og ad slijkt sie fullkomeñ Eidur fyrer DRottne, hvors vegna þau þvi miklu helldur sieu Skulldbundeñ ad hallda þess Trwlegar og Fastara vid þañ Endurnyada Saattmaala, samt alldrei nockru Siñe yfergiefa þau soñu Evangelisku Trwarbrogd, eda i þeirra Lijferne og Framferde vijkia fraa þeim Sañendum, sem þar i eru iñefaleñ, hvor þau hafa nu medkient og svared sig til.

J Añañ Maata, skal Kieñemadureñ uppvekia þau Astkiæru Born til sañarlegs Hiartans Packlætis vid Gud, fyrer þa Naad, sem Gud hefur laated fram vid þau koma i Skijrneñe, og fyrer þa Peckingu, þeim er nu veitt aa þeim rietta Velge til Lijfsins, og ad þau nu skulu odlast þa Naad, ad iñtakast i þeirra Tolu, sem nioota Sætes vid JEsu Bord.

J Pridia Maata aamyñe hañ þau og Hiartanlega til ad ihuga vel siñ Skijrnar Saattmaala, hvern þau hafa nu med Eide stadfest, og ad þau laate alla Verolldena sia og þeckia, ad þau eru nu komeñ i Saatt-Maala vid Gud, og ordeñ honum naaskylld, so ad þeirra sañarlegt Trwar, og Netts Christendooms Lioos kuñe ad skyna og lysa fyrer ollum Moñum, ad þeir siaa meige þeirra Good-Verk, og dyrke þeirra Fodur i Himnenum. A hverium Tijma þau confirmerudu Born vilia þar epter ganga til Guds Bords er þeim i siaalfs Valld sett, og þeirra eigeñ Gyrnd og Jñvortis Hræringu, so og þeirra Foreldra Vilia, sem og Keñe-Fedrunum, hvad þeim syneſt hentast þar uñ. Og jafnvel þo Keñe-Madureñ eige ad raadleggia Bornunum, ad þau framveiges skule koma til ad uppfrædast i Catechismi Lærdoome med odrum Bornum, þa ma þad þo vera epter þeirra eigeñ Frijvilia. Eñ þar til skal Keñe-Madureñ Hiartanlega aamyña og til-skylda oll confirmerud Born, ad þau alldrei aan sañarlegs Profs og Underbwnings gange til Guds Bords, og ad þau uñfram allt kappkoste i Uñvendan og Bæn ad koma þessu so til leidar, ad þau nu ad fyrsta siñe meige ganga þar til med Jñelegre Hiartans Hræringu, þvi þad mætte Orsaka alvarlega og kroptuga Jñþricking i þeirra Hugskot og Saaler, so leinge þau lifa: Ef fleire eñ eiñ Keñe-Madur er i Sofnudenum, þa leyfest Bornunum vid Confirmationina ad ganga til Skripta fyrer hverium Keñe-Mañe þau vilia; eñ þegar þesse Pioonustugiord er endud, skal Keñe-Madureñ, upphvetia giorvallañ Sofnudiñ til Hiartanlegs Packlætis, Lofgiordar og Heidurs vid Gud, fyrer þa Haaleitu og stooru Naad sem þesse Born hafa odlast, so og til Hiartnæmrar fyrer Bænar fyrer þeim Hiartkiæru Bornum, ad þaug ætijd vaxa meige og verda stodug i ollu Goodu. Framar skal Keñe-Madureñ sameigenlega uppvekia all-

ra

ra siña Tilheyrenda Samvitsku ad athuga, hverniñ þeir hafa halldid þa Lofun sem þeir fordum giordu i þeirra Skijrn, upporve hañ þa og eiñiñ til ad um̃venda sier, og epter JEsu Vilia ad verda sem Børn, Forelldrana skal hañ amiña, ad þeir af Hiarta þacke Gude fyrer sijn Børn, stirke þau i ollu goodu, og hallde þeim til ad koma i þa openberlegu Catechisation, edur Uppfræding i Barna Lærdoomenum; Samt gange alla Tijma fyrer þeim med goodum Epterdæmum, og eingañvegeñ med hneixlanlegum Ordum eda Verkum, bæge þeim verduga Heilaga Anda, sem nu hvijler yfer þeirra Bornum, fra þeirra Hiortum, so hverke þeir orsake sier nie þeim Saalar-Topun, eda verde Saalar-Mordingiar. Þetta allt skal hañ enda med þeirre Hiartnæmu Bæn siñ nu epterfylger.

O Þu eilijfe og Almaattuge Gud! Fader DRottens vors JEsu Christi, og vor allra Fader, af hverium allt Faderne hefur sitt Nafn a Himne og Jordu: Vier beigium vor Knie fyrer þier, og graatbænum þijna Fodurlega Elsku, med hverre þu hefur hijngad til elskad oss og villt hier epter elska oss; Þijner Velgiorningar eru fleire, eñ vier getum taled þa riettelega, og stærre eñ vier kuñum þa noogsamlega ad þacka: Þad er þijn Giæska ad vier lifum, og þijn Myskunseme, ad vier meigum vænta betra Lijfs eñ þetta er: Þu uppfræder oss i þessu Lijfe, til ad odlast hitt añad, sem þiñ Soñur hefur oss forþienad, til hvers þiñ Ande vijsar oss Vegiñ: Vier vorum naumlega tiñkomner i Heimeñ, aadur eñ þu hreinsader oss fyrer Vatns-Badid i Ordenu, af þeim Saurendum, sem vier færdum med oss: Þu hefur lofad ad vera vor Fader, og medtaka oss, sem þijns Sonar Brædur: Þu gafst oss þiñ Heilaga Anda i Pant og til Vissu um̃ þiñ Kiærleika og Arfleifd þeirra Heilogu, sem hiaa þier er oss til hins besta, vier lofum aptur a moot, ad afneita þijnum og vorum Ovin, ad um̃flija allt þad sem strijder a moote þiñe Dijrd og vorre Velferd: Þu hefur hallded þitt Loford, þvi vier hofum reynt þig ad vera þañ besta Velgiorda-Fodur allt til þessa Dags; Eñ hvorneñ vier hofum halldid vor Heit og Lofaner, þad er þier aleina best kuñugt; Vier vitum ad sañu, ad vier erum Synduger, eñ þu veitst þo af fleire og stærre Syndum hiaa oss, eñ vier sialfer vitum. Þegar vier bundum Saatt-Maala vid þig, eñ þu aptur a moot verkader Trwna i oss, og gafst oss þiñ Anda, vorum hier eñ þa Ung-Børn og kuñum ecke Handa vorra Skil, nie Footum vorum Forraad, samt var þad þier þægelegt, ad vier ei ad sijdur, sem siñaa-Børn skylldum koma til þijn, þvi þu villdir giora oss vissa um̃ þañ Rett, sem vier af þiñe Naad hofum til Himnarijkis so framt sem vier ei sialfer forsomum slijkt Hiaalpræde, og giorum oss Overduga þess eilijfa Lijffins.

Med

Med þvi eckert kañ jafnast vid þijna Giæsku, þa er þad tilhlijdelegt ad þier verde fyrer hana openberlegt Packlæte audsynt i þijnum Søfnude, hvern þiñ Sonur hefur med sijnu dijrmæta Bloode, so dijru Verde keipt: Pad er naudsynlegt, ad þad þier hefur vered lofad af þeim, siñ adrer giørdu þeirra vegna, verde af þeim sømu Jtrekad, þegar þeir vita ad giøra Skyrslu a sijnum Hiartans Pønkum, og þess helldur faae skulldbunded sig vid þig: Pu vor Gud æviñur Vegsemd þar med, þvi þu ovirder ecke, jafnvel þa Lofgiørd, sem þu tilreider þier af Muñe Smaa-Barnaña; Pau stirkiast i Trwñe, og bindast med þess sterkara Bande vid þig; Pad er oss til Uppbyggingar, þegar vier heyrum, hvørsu þau kuña ad giøra Grein aa þeirre Von er þau hafa. Til þessara Erendagiørda hafa mørg af þijnum Børnum a þessum Deige hier samañsafnast, og ei alleinasta synt, ad þau eru uppfrædd um þiñ Villia og þijna Velgiørninga epter Guds Orde og þeirre ouñbreittu Augs-burgisku Jaatningu, helldur og eirneñ hafa þau endurnyad þañ Saatt-Maala, sem vid þig giørdu i þeirre Heiløgu Skyrn; Gef ad þeirra Hiørtu epter þeña Dag ad-hyllest ecke nockurn, eda nockud, utañ þig alleina, og þad sem þier er vel þocknanlegt. Hiaalpa þu þeim til ad Hugleida hvad stoora Naad þu hefur þeim audsynt i þeirre Heiløgu Skijrn, þar þau, i Syndeñe geteñ og fædd, høfdu forþienad Daudañ, urdu fyrer Endurfædinguna so frelsud fra hvørutveggiu, ad Syndeñ kañ ei framar ad fordæma þau, og Daudeñ ei helldur ad giøra þeim Skada, nær þau siaalfvilia ecke syndga mootþrooanlega og deya eilijflega. Var eige þijn Giæska yfred stoor, sem giørde þau fullviss um Barna Utvalninguna, jafnvel þo þu hefder laangtum betre Børn i þijnum einka Syne, føddum fra eilijfu, i þeim Heiløgu Einglum, sem aller eru þijn Børn, þo þeir sieu ecke þijns Sonar Brædur. Pu hefur fyrer Skyrnena giørt þau hluttakande i dyrdlegu Frelse þiña Barna og fullviss um þitt Fødurlega Hiarta, so og gefed þeim Rett til þess eilijfa Lijfs, og Lijfsins Coronu, og giørt þau eirneñ ad Medborgurum þeirra Heiløgu, og þijnum Heima-Møñum; kuñer þu ad veita nockrum stærre Naad. Mundu þau kuña ad vænta stærre Goodsemdar af þier eda ødrum? O DRotteñ! keñ þeim ad ihuga, hvad gruñlaus þijn Giæska er vid þau, og ad graata yfer þvi, hversu lijted þau hafa skiled af þessum þijnum himnesku Velgiørninge; Kieñ þeim ad aasak sig siaalf, sem Yfertrodslu Meñ fra Moodur-Lijfe, hverra Hiartans Paanka Uppaafinding hefur vered vond fraa Barndoome, ad þvi Leite, þau

hafa

hafa þrælega geinged a Vegum sijns Hiarta, og epter þvi, sem þeirra Augum hefur liteſt, hverſu illa sem þeirra Hiortu og Augu hafa þeſs a millum vijſad þeim Veigeñ; Gef þeim ætijd þijna Naad, til ad þeckia og ydraſt þeſſara Afbrota, hver ad eru gagnſtæd þijnum heilaga Vilia, og a moote þvi, er þau hafa þier heilaglega lofad.

Þijn Naad hefur ſparad þau til þeſſa Tijma, ſo þau mættu i þijns Safnadar Aheyrn endurnya þad Heit, a moote hveriu þu tookſt af þeim, þa Stund þau voru hreinſud fyrer Vatus-Badid i Ordenu; Laat þau alla þeirra Lijf-Daga æſtunda ad hallda þær Lofaner, ſem og eirneñ med Ugg og Otta, fyrer þvi, ad bregda af þeim nockru ſiñe, verka þeirra eigeñ Saaluhiaalp; Framkvæm þad i þeim, ad þau vilie þioona þier, ſem helgar þeirra Vilia; Verka þu þad og eirneñ ad þau meige utrietta þad þu villt, og þau ſiaalf eiga ad vilia, ſo helgar þu þeirra Verk; Og ſo ſem þau aan þijns Sonar, kuña ølldunges eckert ad giora, þa laat hañ vera i þeim, og þau i honum, ſo ad hañ og þau meige vera eitt, lijka ſem þu og hañ erud eitt, ad þau fyrer hañ fære megnad þad þau af ſiaalfum ſier i eingañ Maata geta; Vertu þeirra Ungdooms Typtunar-Meiſtare, ſo laata þau ei einaſta af, ad giora þad Vonda, helldur læra ad giora þad Gooda, ſo fa þau ei alleinaſta Vidbiood a þeim faanijta Hiegooma ſem er i Heimenum, helldur leggia þar ad auke Kapp a i Trwñe ad audſyna allar þær chriſtelegar Dygder, ſem þier eru þecknanlegar, og þeim ſiaalfum meſtur Soome ad, ſo ad þau verda meige hreiner Bwſtader fyrer þiñ Anda, ſem hefur hreinſad þau i Skijrneñe, og er alltijd reidubwiñ, ad meddeila þeim ſijnar Gaafur. Þau hafa nu goodviluglega, og i allra vorra Aheyrn, lofad ad afneita Dioflenum, ollu hañs Athæfe, og ollum hañs Verkum; Veit þeim þijna Hiaalp, ſo ſlijkt falle þeim alldrei ſwr Myñe; Laat þau med alvarlegu Hatre hata alla þijna Ovine, ſo ſem þeirra Saalar og Saaluhiaalpar Ovine. Hindra þu goode Fader, ad þau nockru ſiñe giefe Dioflenum þad Rwm, ad þau giore þad hañ vill, eda hlijde þvi hañ Naadleggur, þvi hañs Athæfe er ſvikſamlegt, og ſtrijder a moote þeirra Frelſe, hañs Giorningar eru ſkaмarleger, og ſtofna til þeirra Fordiorfunar; Laat þau ecke falla i þær Ovinarens Hendur, fra hverium þu hefur þau frelſad, helldur hiaalpa þeim ad þioona þier i Heilagleika og Riettlæte alla þeirra Lijfdaga; Og þo Satan, þeirra mootſtandare, gange um kring, þa baña honum ad ſvelgia þau; Upplijs þeirra Skilnings Augu, ſo hañs Raadabrugg verde þeim ecke okuñugt; Riett þu þeim Skiølld

 Trwar

Trwareñar, ad þau i þeim sama gete wtslockt hañs gloandde Pijlur; Laat þau af Rijkdoome þiñar Dyrdar krøptuglega stirkiast, fyrer þiñ Anda i þeim Jñra Mañe, so þiñ Sonur bwa meige fyrer Trwna i þeirra Hiortum, so verdur hañ, sem er i þeim, meire eñ sa, sem er i Heimenum, og þeim aa moote, þau verda stirk, og faa yferuñed þad Vonda, med þijnu Orde, sem hiaa þeim bygger.

Pau hafa nu Skulldbunded sig til ad trwa aa þig, þiñ Son, þiñ og þijns Sonar Heilagañ Anda; Hiaalpa þeim hvørn Dag ad giora Enda aa þeirra Lofunum, ad trwa aa þig af øllu Hiarta, og alldrei sleppa þeirre Trw, Þau hafa þier og þijnum Heiløgum lofad, helldur ad þau fylgia meige þeim O-Raskanlega, O-Umbreitanlega, og O-apturkallanlega Sañleika, sem er þad Eilijfa Lijfsins-Ord, og Vegvijser til Eilijfs Lijfs; Laat þau þeckia, ad þau giøra alldrei añad betra, eñ giefa grandvarlegar Giætur ad þvi sama Hiaalpræddes-Orde, hvørt, so sem eitt skijnande Lioos i myrkvum Stad, skijne iñ i þeirra Hiørtu, til Upplijsingar þijns Sonar Ypparlega Lærdoome; Laat þad upplijsa þeirra Skilning, Helga þeirra Vilia, og giefa þeim Raad i øllum þeirra Athøfnum; Laat þad, ad þau hafa kallad þig Fødur, miña þau aa þañ Heidur, sem good Børn eru skylldug ad veita so goodum Fødur; Ad þau hafa aakallad þiñ Son, sem er Eirn DRottheñ, vidhallda þeim Otta i þeirra Hiørtum, hvørn Trwlynder Þienarar eiga ad veita þeim HErra, sem er Himens og Jardar DRottheñ; Ad þau hafa aakallad þañ Heilaga Anda, myña þau aa, hvørneñ þau eiga ad fylgia hønum, i þvi ad framgaanga i øllum Sañleika og aa þijnum Vegum; Laat þau jafnframt alldrei gleyma þvi er þau hafa svared i Dag, og so fastlega þar epter hallda, ad þau Daglega vardveite Dooma þijns Riettlætis. Þijner Þienarar hafa med Handaña uppaaleggingu blessad þau, og beded þiñ Heilaga Anda ad auka sijnar Gaafur yfer þeim og i þeim. DRottheñ, tak alldrei þijna Hønd, eda þiñ Heilaga Anda fraa þeim; Stioorna þeim, sem þijnum Handa-Verkum! Utrettu þijna Hønd til ad stirkia, hiaalpa og veria þau moote øllum þeirra Andlegum Ovinum, og laat eingañ slijta þau wr þiñe Hende. Þau hafa nu jaatad þig Opinberlega, ad vera siñ Gud, sem og lioost giort ad þeim er ei Okuñugt um þig, þiñ Vilia, og þijnar Velgiorder, hvørs vegna þeim er lofadur Adgaangur til þijns Sonar Heilaga Lijkama og hañs Dijrmæta Bloods, i þvi Haaverduga Alltaresins Sacramente. Laat þau

alldrei,

alldrei, nema vel proofud og underbwen, framkoma til þvilijkrar Saaluhiaalplegrar Maaltijdar, helldur Hugleida hvors þau verda þar nijotande, og hvad epter mune koma, ef þau mæta þar, sem Overduger Giester. J-klæd þau siaalfur þvi rietta Brwdkaups-Klæde, Tilbw þau sem þu villt siaalfur þau sieu, og laat þau so taka aa moote Giædum þijns Hwss, og þeim Heiløgu Hlutum i þijnu Mustere, sem þau ed ætla sier ad Lifa og Deya Oefud um ad verda Hluttakande i þijnum Himne og Vegsemd, og i þiñe Dijrd og Saaluhiaalp. Verka þad, þau alldrei gleyme ad þu hefur giefed þeim Eitt Rwm i þijnu Hwse, Eitt Nafn, sem betra er eñ Sona og Dætra. Hiaalpa þeim hvørt sem þau gaanga um̃ þijn Andyre, ad fiñast i þijnu Hwse, sem þijner Heima-Meñ, sem og Jñe og Ute fyrer þvi, ad verda þeckter fyrer þijna Syne og Dætur, Þijn Saaluhiaalplega Naad age og uppfræde þau, ad fraafælast Ogudlegt Athæfe, og þær Veralldlegu Gyrnder, ad lifa Hreinferduglega, Riettferduglega og Gudlega i þessum Heime, So sem þau ed vænta, og eru viss um̃, ad þeim skule Eilijflega vel vegna aññars Heims; Þvi nær þau þeynkia um̃ þig siñ Skapara i þeirra Ungdoome, þa villtu og eirneñ þeynkia til þeirra til hins Besta, hier og sijdar i Tijmanum og Eilijfdeñe. Hiaalpa oss øllum, Gomlum og Ungum, Foreldrum sem Børnum, so Hwsbænd um sem Ptoonustu-Foolke, ad hugleida og syrgia hvad litlu Þacklæte vier hofum offrad þier fyrer þijna Naad oss veitta i þeirre Heiløgu Skijrn, samt hvørsu illa vier hofum golldad þier þau dijrmætu Heit, sem þa voru giørd af oss, Þiñ goode Heilage Ande leide oss hier epter, til ad hafa Vidbiood aa øllu þvi, sem þier misþocknast, Eñ halida fastlega vid þig alleina; Sierdeiles laat oss alldrei med Athugalausu og Hneixlanlegu Lijferne i Ordum, sem aññadhvort strijda aa moote þijnum Openberudum Saññleika, eda aa moote Soomasamlegu Sidlæte, hneixla neina af þeim Smælingium, og Unglingum, sem kuña ad vera hiaa oss, þvi þa mættum vier Orsaka ei alleina vorum, helldur og so þeirra Saalum Eilijfa Fordiørfun. Strijd med og fyrer þijna strijdande Kyrkiu, hvørrar Limer þeir eru, sem i Dag hafa Opeñberlega giort sijna Trwar-Jaatning; Þitt Heilaga Ord, og þijn Haaverdugu Sacramenta vidhalldest hiaa oss, aan minstu Um̃breitingar til Veralldareñar Enda, ad vier fyrer þad hvørtveggia mættum alltijd kemast þier nær og nær. Þiñ Smurde, Vor Allra Naadugaste Arfa Herra og Kongur, Kongur CHRISTJAN Siøtte, sie og vere Blessadur af þier nu og sijdar meir, i þessare og þeirre

 til-

Tilkomande Verolldu; Laat Hañ uppskiera Avexteñ, lijka eirneñ af þessa Dags Utriettingu, so ad Hañ alla þa, sem Endurnyad hafa sijna Skijrnar-Lofun, reyna meige gooda og hlijdna Þegna, er vita ad hvor sa, sem Ottast Gud, skal heidra Kongeñ. Biood Lijfe og Lucku, biood Sooma og Heidre, biood ollum þijnum Gooda ad vera hiaa og yfer Heñar Majestet, Vorre Allra-Naadugustu Drottningu, SOPHIU MAGDALENU, Heñar Veiger stadfestest i þijnum Otta, þiñ Vilie sie Heñar Majestets Vilie, og laat alldrei af ad giefa Heñe nya Vitnisburde um þijna Guddoomlega Elsku! Hañs Konunglegu Haaheit, Vor Naadugaste Arfa-Printz og Herra, Printz FRIDERICH, Samt Baadar Þær Konunglegu Princessur, fiñe vid hvort Foot-Maal Þau gaanga, þig, sem Vegvijsara, og þijna Myskun, sem Varatekt; Biv þu i Þeirra Hiørtum, og laat Þau hvijlast aa þijnum Ormum. Giør vel vid Þad giørvalla Konunglega Arfa-Hws; Giæd þu Þad med þiñe Naad, og aus þu þijnar Blessaner yfer Þvi! Tak ad þier allañ Christeñdoomeñ! Veittu Adstod og Forsvar þessum Rijkium og Londum, samt hvorium einum Iñbyggiara i þeim; Gief oss Frid allt um kring, eñ allra hellst vid þig! Vardveittu oss fraa nærmum Siwkdoom um, Eñ sierdeiles fraa þeirre Synd, sem saurgar vorar Saaler! Utbijttu Braude til allra Hwngradra Muña! Uthelltu Huggun i allra Sorgbiteña Hiortu! Þijn Hond forsvare allar Eckiur, Fodurlausa og Vfergiefna. Þitt Auga siaae fyrer Vegfarendum! Þijn Blessan fylge þeim er leita siñar Atviñu! Þitt Heilaga Ord umvende þeim Syndugu! Þijn Oendanleg Myskun take þa Umvendtu til Naadar! Verkadu þad, ad Saalum þeirra Siwku vel lijde! Og vijsa hiñe sijdurstu Andvørpun þeirra sem deya i Trwñe, Veigeñ til þijns Hiarta! Gief oss ollum meir eñ vier høfum umbeded, samt meir eñ vier skyniom ad bidia! Vardveittu allañ vorn Anda, og Saal, og Lijkama Ostraffanlega allt til vors DRotteñs JEsu Christi Tilkomu, Amen, I JEsu Nafne Amen.

Sijdañ lesest Fader vor, Og Blessunar-Ordeñ: Og ad endudu þessu Heilaga Verke, syngest Herra Gud i Himerijke etc: Þar epter skal lesast af Diaknanum su venjulega Bæn i Koor-Dyrunum, hvar med oll Guds Þioonustugiord i þad siñ skal vera lyktud og aa Enda.

12. Þad Keñe-Meñena aahrærer, sem Confirmationena skulu Handtiera; Þa meiga Forelldrarner i þeim Stødum, hvar ed fleire eru eñ eiñ Keñe-Madur, (Eñ hvar ecke nema eiñ Keñe-Madur er, þar helldur hañ bæde Yferheyrsluna og Confirmationena) þvi raada, ad senda sijn Born, hverium Keñe-Mañe þeir villa; Sa hiñ same

under-

undervijse Bornunum heima i sijnu Hwse; Eñ vid Confirmationenā yferheyre hvor eiñ Keñe-Madur þau Born, sem hañ hefur uppfrædt, og þad epter þeim Forgaungu-Retti, sem er milli þeirra i Tillite þeirra Embætta; Sa eine læte hañ añañ hafa Tijma þar til; Sa eine confirmerar einu siñe, hiñ añar ødrusiñe. J þeim Stødum hvar þad hefur vered Venia hijngad til ad gefa nockud fyrer þeirra Yferheyrslu, sem i fyrsta siñ vilia ganga til Guds Bords, þar ma eñ nu framveigis sierhver Keñe-Madur njoota þess fyrer sitt Omak, þo med þvi moote ad vægt sie þeim Fatæku; Eñ i þeim Stødum, hvar slijkt hefur ecke vered hijngad til Venia, þar maa Søfnudenum ecke ofþijngia med neinum nijum Alogum; Skal þad eigenlega hier med skiliast og athugast, ad þetta Heilaga Verk skulu Keñe-Meñerner i øllum kringum stædum lada og giora til Safnadarens Uppbyggingar, eñ Tilheyrendurner hegde sier aa medañ sem endrar nær, med Heilagre Gudrækne; Hier epter skulu aller Vidkomendur i allre Undergefne sier hegda, og giora ecke hier a moote, epter þvi sem fyrerskrifad stendur, nockra Hindrun, edur Baga i neiñ Maata, vilie þeir ei missa Vora Hollustu og Nad: Bioodum vier og skipum hier med Vorum Statholder i voru Rijke Norveg, Greifum, Stift-Befalnings Moñum, frij-Herrum, Biskupum, Amtmoñum Lands-Doomurum, Løg-Moñum, Præsidentum, Borg-Meisturum og Radi, Fogetum og øllum ødrum sem þesse Vor Forordning med underþricktu Voru Cancellie Signeti tilsend verdur, ad þeir hana a tilhlijdelegum Stødum, sem og eirneñ af Predikunar-Stoolnum, øllum til epter-Rettingar, strax læte lesa og auglijsa.

U tgefeñ af Voru Slote Friderichs-Bergi þañ 13. Januarii Anno 1736.

Under Vorre Konunglegre Hønd og Signeti.

**Christian R.**

**LS**

Þeßi Bæneñ i Forordningune, sie alldeiles ovmbreitt; Skulu Prestarner hier med vita, ad laga Bænagiørdena fyrer Hañs Kongl. Majest. og þvi Konungl. Arfa-Hwse, so sem þeim er aadur, Hañs Kongl. Majest. Allra-Nadugasta Befalning, Allra-underdaunugast til Vitundar giefeñ.

HALLDOR BRINJOLFS-SON.

 EXSTRACT

# EXTRACT

Af

Þvi Konunglega Allra-Nadugasta RESCRIPTE

Um̃

# CONFIRMATION-

ENA,

Nær og hvørsu hun eige halldeñ ad verda i bædum Stiptum

Skalhollts og Hoola i Islande.

Daterud a Hirsch-Hoolms Slote þañ 29. Maii Anno 1744.

Christian hiñ Siötte af Guds Naad, Konungur i Danmørk og Norege, Vinda og Gauta, Hertoge i Slesvijk, Holstein, Stormarn og Ditmerſken, Greife i Oldenborg og Delmenhorst. Med þvi Vier høfum orded æskynia, ad jafnvel þott Vor Allra-Nadugasta Forordning um̃ Ungdoomsens Confirmation og Stadfesting i sińe Skijrnar-Naad, hvør wtgeińeñ er þañ 13. Januarii 1736. Epter þad hun hefur vered snweñ a Islendsku, sie ad søñu introducerud allstadar i Islande, so og visser Suñudagar, Sa næste fyrer Urbanus Messu, og eins hiñ næste fyrer Michaelis Messu hafe þar til vered ætlader, samt hafe þad þo vidbored, ad nockrer Prestar þar i Lande hafe confirmerad Børn Suñudageñ Quasimodogeniti, og adrer a Suñudageñ fyrer Urbanus Messu; Þa høfum Vier Allra-Nadugast funded þad Gott vera, ad giøra Skipun og Skickun til þess, ad þar verde Eitt Uniformitet i þessu mikla Verke um̃ allt Landed, so sem Vier og Allra-Nadugast Skipum og Skickum þañig sem Epterfylger;

1. Skal

1. Skal Confirmationen framfara og halldeñ vera i Skalholts og Hoola Biskups Dæme i Islande, Suñudagen fyrer Urbanus Messu; Eñ hvar Søfnuderner eru stoorer, skal hun og so halldast Suñudageñ fyrer Michaelis Messu.

2. Nær þad vidber, ad miked Ovedur, Fiwk, Vatna-Vøxtur og añad þvilijkt hindrar Søfnudeñ ad fara til Kyrkiuñar a þeim tiltekna Deige, þa skal Confirmationen halldast a næsta Suñudeige þar epter.

3. Med þvi þess giefst Raun, ad Borneñ gieta Optsiñes ecke komest til añarar Kyrkiu fyrer Vatnsføllum edur ødrum Log-mætum Hindrunum, og þad sijnest ad vera hentugast, ad Confirmationen skiede i þeirre Sookn, hvar Borneñ eiga heima, til þess ad sa Søfnudur hafe og so Nytsemd þar af, Þa er þad Allra-Nadugast leift þeim Prestum, sem hafa Eina edur fleire Annex-Kyrkiur, ad confirmera þau Ung-Meñe i þeirre somu Annex-Kyrkiu, sem eru Præparerud til Confirmation, a næsta Suñudeige epter þa Daga sem til eru tekner i Fyrsta Poste, Og hvar þar eru fleire eñ Ein Annexia, þa a Pridia Suñudeige þar epter.

4. Aller Prestar skulu epter þeim 4. Artic. i confirmationsForordninguñe giæta þess nakvæmlega, og med allre Vandlæting, Sierhver i sijnu Kalle og Embætte, ad þad sem Borneñ, er eiga ad Confirmerast, svara til Spurningaña i þeirra Christeñdooms Þeckingu, sie ecke einunges iñfaled i Myñenu an Skilnings og Athuga, helldur skulu þeir, epter Hlioodan þess sama Articula, kieña þeim þañig, ad þau gete feinged Eina lifande Þecking, og framkvæme þad sem þau lært hafa, til Nytsemda og Christeñdooms Idkunar i Verkenu, til þess, ad Ungdoomureñ, þa Guds Sañende verda iñprentud hia honum med Alvorugiefne, kyñe ad uppvekiast til ad giefa Sañleikanum Rwm, og ad epterfylgia honum i Lifnade og Framferde, Eirnig ad hañ fae rietta Umbreiting Hiartans og Hugskotsens. Og med þvi þad er kuñugt, ad sa Osidur hefur vered næsta algeingeñ, ad taka Born so unga til Confirmation, ad þau hafa vered 9.10.11. edur 12. Ara, eins og þau hafa og hijngad til vered tekeñ til Altares, þa viliun Vier Allra-Nadugast, ad Eitt Barn skule ad minsta Koste hafa nad þeim Alldre, fyrr eñ þad leitar Confirmation, ad rada meige, ad þad giete athugad med goodre Eptertekt, hversu Heilagt og Hævigtugt þad sie, sem hier gioerest.

5. So ad Ungdoomureñ meige uppvekiast til ad vilia læra med Kostgiæfne ad lesa a Book, þa viliun Vier Allra-Nadugast, ad Eitt Barn ad minsta Koste, hvar einhvør er læs til Heimiles hia Forelldrum þeirra, Husbændum edur Nakomnum, lære ad lesa a Book, adur eñ þad kiemur til Confirmation.

6. Þad skal skipa Prestunum i hverutvegaia Stipte, ad sierhver eirn af þeim strax wtvege sier eina Book ad skrifa þa i sem hafa vered tekner til Confirmation, hvad þeir

og

og þeirra Epterkomendur i Embættenu skulu jafnañ giora þadañ i frá.

7. Prestarner i hvorutveggia Biskups Dæme skulu láta Biskupeñ vita a hvörju Are hvörsu mörg Börn ad hafe vered confirmerud i sierhvörö Sookn, so og hvört, og hvörsu leinge Eitt og Sierhvert hafe þeiged Uppfræding af Prestenum, so ad Biskupen kuñe vitad þegar Hentugleikeñ so fellur, hvada Grundvöll Barned hafe feinged a þeim Tijma; Hvar fyrer Börn þau sem hafa vered confirmerud, skul ... an allra Undañbragda koma til Kyrkiu þegar Biskupeñ visiterar i Sierhverium Stad, til þess, ad þvi giör verde vitad, hvört Vorre Allra-Nadugustu Skickun hafe Allra-Underdanugast vered epterlifad i öllum Greinum, etc.

Skrifad a Hirsch-Hoolms Slote þañ 29. Maij Anno 1744.
Under Vorre Konungl. Hende og Signete.

**Christian R.**

**(L. S.)**

J. L. v. Holstein.

Ad þetta sie riett extraherad og translaterad epter sijnum Original af þvi Kongl. Allra-Nádugasta Reskripte, sem a ad geymast j hvörutveggiu Stipts-Kistu Skalholts og Hoola.
Testr. Skalhollte þañ 5. Augusti Anno 1744.

LUDVIG HARBOE.

